og er hún viðlíka fornleg og gerðið sjálft. Hún er í norðurhorni gerðisins. Það er ekki ómerkilegt, að örnefni eru kend við *munka* á þeim stöðum, sem eigi voru klaustur nærri, t. d. Munkasetur á Býjarskerseyri. Það má ef til vill ímynda sér, að munkar, sem reknir voru úr klaustrum á fyrri hluta 16. aldar, svo sem úr Viðey, hafi tekið sér aðsetur hvar sem bezt gekk, og séu örnefnin við þá kend. En líka má ímynda sér, að þau séu kend við einsetumenn, er hér hafi verið í fyrstu kristni eða áður klaustur voru sett. Þetta getur hvorttveggja verið. Út af þessu dettur mér í hug að athuga bæjarnafnið *Vatnsleysu;* það hefir verið, og er, óráðin gáta, hvernig á því er háttur. Því þar er enginn skortur á vatni. Bærinn stendur á lækjarbakka og á alla vegu er skamt til mýra. Af landslagi má sjá, að lækurinn hefir alt af runnið á sama stað. Því hafa sumir gizkað á, að bæjarnafnið eigi að vera *Vaðs*leysa, af því bæjarlækurinn hafi þótt illur yfirferðar. En þá mundi nafnið vera *Vað*leysa, því svo kalla menn þar, sem illslarkandi er yfir ár eða læki. Það á og ekki við um þann læk. En hafi hér nú búið munkar, *meinlætamenn,* væri þá ekki hugsanlegt, að þeir hefði á vissum tímum *neitað sér um að drekka vatn?* Og lægi þá ekki nærri, að aðrir menn hefðu, — af undrun, ef ekki af háði, — gefið bænum nafn eftir því? Vita menn ekki dæmi, er þessu séu samsvarandi?

---

## Í Holtum.

Milli Vatnsleysu og Múla í Biskupstungum er breitt mýrlendissvæði. Á því er á einum stað holtaþyrping, og er það kallað *»í Holtum«*. Það er í landi jarðarinnar *Holtakota* og er þar sauðahús þaðan. Það stendur á gömlum rústum, sem á þann hátt eru eyðilagðar. Þar hafa verið fleiri sauðahús áður, og eru tóftir þeirra nýlegar. Þannig er ekki hægt að átta sig á, hvað af rústunum má fornt kalla. Nokkru ofar, hærra á holtinu, er forn túngarður, og í brekkunni niður frá honum er fornleg tóft, og er hún áföst við vesturenda garðsins. Hún liggur frá norðri til suðurs, nál. 10 faðma löng. Miðgafl er í henni ofan til um miðju, og verður ekki séð, hvort dyr efri tóftarinnar hafa verið á hliðinni eða miðgaflinum. Dyr neðri tóftarinnar eru á neðri endanum. Hygg eg helzt, að þetta sé fjóss- og hlöðutóft. Þaðan liggur túngarðurinn fyrst til austurs nokkuð lengi, en snarbeygist svo til suðurs og gengur þá ofan að mýri. Fyrir innan krókinn á garðinum er tóft, nál. 6 faðma löng, snýr til suðurs og hefir dyr á suðurenda. Eigi er miðgafl í henni. Garðurinn greinist í tvo arma skamt fyrir ofan mýrina, ná

báðir armarnir niður að mýrarjaðrinum og er þar þvergarður milli þeirra. Verður við það þríhyrnd girðing. Þó er efsta horn hennar skorið frá með stuttum þvergarði. Þar við myndast þríhyrndur smáreitur, sem án efa hefir verið sáðreitur. Svo segja munnmæli, að bygð hafi verið í Holtum til forna, og að þar hafi verið höfuðból og kirkjustaður, en að Holtakot hafi verið hjáleiga þaðan. Nafnið Holta*kot* bendir líka til að svo hafi verið. Er að sjá sem þá hafi þar verið fleira en eitt býli, því enn er bærinn ávalt nefndur »í Holtakot*um*«. Er sagt að bærinn og kirkjan hafi staðið þar, sem fjárhúsin hafa síðan verið sett. Þaðan er fjóss- og hlöðutóftin, sem fyr var getið, eigi langt frá, og hefir hún víst tilheyrt heimabænum. Skamt vestur frá tóftunum er kaldavermslisdý með ágætu vatni og hefir það verið vatnsból bæjarins. Það er kallað »Holtabrunnurinn«. Hvergi er, það eg veit, getið um þenna bæ í ritum, og hefir hann án efa lagst snemma í eyði.

Þess skal getið, þó það komi ekki fornleifum við, að bak við fjárhúsin, og mjög svo nærri þeim, er gjá, sem raunar er orðin að uppgróinni graslaut, en rifnaði þó nokkuð aftur í landsskjálftunum 1896; þó er það nú að gróa á ný. Stefna gjáarinnar er frá norðaustri til suð-vesturs, eða því nær eftir línu milli Geysis og Reykholtshvers. Eigi er þetta hraungjá, því hraun er þar hvergi nálægt.

---

## Í Helludal.

Neðarlega í túninu í Helludal í Biskupstungum er fornleg tóft, tvískift af miðgafli, sem dyr eru á, og útidyr á enda framtóftarinnar. Er tóftin kölluð hoftóft. En það ætla eg að eigi sé rétt, og virðist mér hún fremur líta út fyrir að vera fjóss- og hlöðutóft Það styrkir og þá ætlan, að þar skamt frá í túninu er önnur rúst, þrískift, sem án efa er forn bæjartóft. Hvortveggja rústin er niðursokkin og óglögg. Fyrir ofan vesturtúnið er forn garðspotti milli lækja tveggja. Hann hefir verið svo þykkur, að hann hefir klofnað neðan til og svo sigið ofan í sjálfan sig, svo að hann líkist næstum langri og mjórri tóft í fljótu áliti.

---

## Steinsholt.

Eigi vita menn af eyðibæjum á Biskupstungnafrétti fyrir heiman Hvítá. En niðri í bygð, nokkru fyrir neðan, beina línu milli efstu bæjanna, Hóla og Brattholts, er eyðibýli, sem Steinsholt heitir. Þar er nú alt blásið. Bærinn hefir staðið sunnan í lítilli hæð,

og hefir hleðslugrjótið úr honum hrunið niður, svo undirstöður sjást eigi svo gjörla, að húsaskipun verði ákveðin. Eigi vita menn, hvenær þetta býli hefir lagst í eyði.

Um leið skal eg geta þess, að norður frá Hólum heitir Árbrandsá og Árbrandshólmi. Þau örnefni minna á Ásbrand landnámsmann og eru ef til vill kend við hann. En þá hefir *s* (í *ás*) breyzt í *r* og hefir það víðar átt sér stað.

---

## Laugartorfa.

Í Árb. Fornl.fél. 1894, bls. 8, gat eg um þingstaðarmenjar á Laugartorfu milli Helludals og Neðradals (sem fyrrum hét Neðri-Haukadalur), og sló eg því fram, að þetta mætti setja í samband við það, er Guðmundarsaga biskups nefnir »lögréttu í Haukadal«. Gat eg þess, að á torfunni hefði eg séð 2 hringa og fyrir víst 12 tóftir er líktust búðatóftum, og að þar gæti verið fleiri, þótt eigi sæist, því hrísið væri að vaxa. Aftur er Laugartorfa nefnd í fylgiriti við Árb. 1899, bls. 36. Þar skýrir Daníel Bruun kapt. frá því, að hann skoðaði þenna stað og sá hringana báða, en eigi sá hann fleiri en 5 tóftir aðrar, því hrísið hafði vaxið yfir hinar. Áleit hann þetta fjárhúsatóftir og hringana gjafahringa. Það mundi hann naumast hafa álitið, ef hann hefði séð allar þær tóftir, sem eg sá þar, því trauðla munu sjást 12 eða fleiri fornlegar fjárhústóftir á einum stað, jafngamlar að sjá. Og auk þess var það lengi fram eftir öldum, að á Suðurlandi voru engin hús gjör fyrir »útigangspening«. Mér þykir því, enn sem fyr, líklegast, að hér hafi verið þingstaður. Hafi það ekki verið, þá veit eg ekki hvað eg á að ímynda mér um þessar tóftir. — Þess skal eg geta, að eg kom þangað í sumar, en gat þá ekki séð nema annan hringinn og *eina* af tóftunum. Svo mjög hefir hrísið vaxið.

---

# Enn um hella.

Margir eru hellar á ýmsum stöðum í Rangárþingi; en langflestir þeirra eru högnir í móhellu, sem er svo mjúk og auðunnin, að minna kostar að búa til hellinn en að byggja jafn-stórt hús og halda því við. Þeir geta verið frá hvaða tíma sem vill, og því hefi eg ekki gert þá að umtalsefni. En um þá hella, sem eg hefi áður ritað um í Arbók Fornleifafèlagsins, er annan veg ástatt. Þeir eru högnir í svo hart berg, að margfalt meira hefir kostað að búa þá til en að byggja hús. Það er samt ekki ætlan mín, að fara nú að rita um þá aftur. En eg ætla að bæta við *fjórum hellum*, sem eg álít ástæðu til að lýsa. Bergið, sem þeir eru högnir í, er raunar móhella, en svo eitlaborin, að ilt hefir verið að vinna hana. Kalla má skamt á milli þessara 4 hella; þeir eru í beinni línu milli Rauðnefsstaða og Stórólfshvols. Nálægt þeim öllum er silungsveiði, eru 2 við Fiská, en 2 við Hvolslæk, sem efst heitir Þórunúpslækur. — Þó svo skamt sè milli þessara 4 hella, er bæði móhellan og eitlarnir í henni með sínu móti á hverjum staðnum, og er það jarðfræðislega merkilegt. Skal nú lýsa hverjum fyrir sig.

1. *Þorleifsstaðahellir* er efstur af þessum 4 hellum. Hann er í gljúfursbrún við Fiská skamt fyrir innan bæinn á Þorleifsstöðum og er notaður sem beitarhús þaðan. Þar litlu innar er foss í ánni og undir honum góður silungahylur. Móhellan, sem þessi hellir er í, er svo sem 6—8 al. þykt lag ofan á gljúfursbrúninni báðum megin árinnar. Eigi virðist það vitt um sig á neinn veg. Efnið í þessu móhellu-bergi er einkennilegt, og hefi eg hvergi séð það annarsstaðar; það er svo mettað af smáum hraunsteinseitlum, að móhellan sjálf er ekki nema eins og steinlím til að tengja þá saman. Eitlarnir eru á stærð við baun að meðaltali, en móhelluefnið, sem heldur þeim saman, er blá-móleitt, eins og eldfjalla-aska, sem það líka eflaust er. Litlu eða engu hygg eg auðveldara að vinna þetta berg en venjulegt hraungrýti (lava). En jafnara er það og hefir smærri holur. Má með góðri kunnáttu höggva það svo, að fallega

líti út. Framan undir móbergsbrúninni eru víða brekkur ofan í gljúfrið, en sumstaðar þrep fram á gljúfursbrúnina. Á því sitja mörg, stór móbergsbjörg, sem fallið hafa úr móbergsbrúninni. Bak við eitt þeirra er hellirinn. Hann er tæpar 17 al. að lengd, $3^1/_2$ al. að vídd og rúml. 3 al. að hæð. Hann er fallega myndaður með jöfnum veggjum, bogahvelfdu ræfri og þverbeinum gafli, og eigi ólíkur þeim hellum, sem eg hefi áður lýst. Afhelli hefir hann engan. Hið merkilegasta við hann er þó það, að *úthöggvin mynd í umgjörð* hefir verið á vestur-veggnum, nál. $4^3/_4$ al. frá gaflinum. Því miður er myndin nú eigi heil; burt er fallið höfuð líkneskjunnar og alt ofan á brjóst. Neðri hlutinn er heill, en nokkuð máður, því þar hefir verið sett jata með hellisveggnum og hafa horn kindanna nuddast við myndina. Þó sér enn fyrir kviðar-bungunni og klæðafellingum niður frá henni, einnig fyrir kápubörmum báðum megin til hliða. Umgjörðin er alheil og nokkurn veginn glögg. Hæð hennar er 2 al., en breidd út á brúnir $^3/_4$ al. Hún er fallega bogamynduð að ofan og svo beinar stoðir undir, nær 2 þuml. breiðar. Svo segir Böðvar bóndi Jónsson á Þorleifsstöðum, að í æsku hans var myndin heil, að því er hann bezt gat séð. En svo fór hann þaðan og var mörg ár annarsstaðar. Þá er hann kom aftur, tók hann eftir skemdinni, sem myndin hafði orðið fyrir. En enginn gat sagt honum, hvernig það hafði atvikast. Mestar líkur þykja mér til, að manna höndum sé um að kenna, þó eg geti ekki fullyrt það. En hvernig sem á skemdinni stendur, er að henni mikill skaði. Því af umgjörðinni og því, sem eftir er af myndinni, er helzt að ráða, að það hafi verið dýrlingsmynd og gæti það þá enn bent til Papa, Eg bjó til uppdrátt af umgjörðinni og því sem eg gat séð af myndinni. En torvelt var að gera hann nákvæman, því þar innar frá er varla meir en hálf birta.

2. *Vatnsdalshellir* er í austur-horni Vatnsdalsfjalls, örskamt frá Fiská. Móhellan, sem hann er höggvinn í, er af venjulegri tegund, móleit að lit og mjúk í sér; en mjög er hún eitlaborin. Eru eitlarnir á stærð við sauðarvölu, allir úr blágrýti og hornóttir. Þetta berg er því ekki allauðunnið. Í fyrstu hafa hér verið 2 hellar samhliða, en veggurinn milli þeirra svo þunnur, að hann hefir brotnað burt inn fyrir miðju. — Það minnir á Rauðafellshellinn En þar, sem veggurinn var, hangir ávalur hryggur langt niður úr ræfrinu. Að innanverðu er hellirinn enn tvískiftur, og eru báðir partar hér um bil jafn stórir, 4 al. háir og 4 al. víðir. Báðir hækka þeir innar eftir og er strompur upp úr öðrum. Hvelft ræfur er yfir báðum, og gengur það utar úr gegn, báðum megin við hrygg þann, er fyr

getur. Ræfurhvelfingarnar fara lækkandi utar eftir, og er eigi manngengt undir þær framan-vert. En svo mun eigi hafa verið fyrrum. Hellirinn hefir nfl. í langan aldur verið notaður sem beitarhús, en sú kredda fylgt, að aldrei mætti moka hann út. Er sauðataðslagið á gólfinu því orðið afar þykkt og hæð hans þeim mun minni. Nú er hann eigi notaður lengur.

1. *Þórunúpshellir* er sunnan í rana þeim, er gengur suð-vestur af Vatnsdalsfjalli fyrir neðan Rjúpubotna. Úr þeim kemur Þórunúpslækur, — sem neðar heitir Hvolslækur og enn neðar Garðsaukalækur. — Hellirinn er í grasbrekku við lækinn góðum kipp fyrir neðan bæinn. Bergtegundin, sem hellirinn er höggvinn í, sést þar víða með læknum. Það er svartbrún móhella með blágrýtiseitlum. Þeir eru að jafnaði stærri en baun, kúlulagaðir og liggja í lögum Þessi bergtegund er auðunnust af þeim fjórum, en er þó harðari en venjuleg móhella. Eiginlega eru hellarnir tveir og göng í milli. Vesturhellirinn er miklu stærri: nál. 35 al. langur og $5^3/_4$ al. víður að innanverðu, en mjókkar utar eftir. Á hæð er hann að eins manngengur og þó tæplega það inst. En þykk taðskán er á gólfinu. Gafl er í innri enda, nokkurn veginn þverbeinn upp og niður. Ræfrið er hvelfing, sem beygist jafnt ofan að gólfi, svo veggir eru eiginlega engir. Hellirinn smámjókkar fram og verða fremst dyr af sjálfu sér. En þó hafa útidyrnar verið hlaðnar. — Svo er á öllum hellunum. — Nál. 6 al. fyrir innan dyrnar eru göngin í austurhellinn. Þau eru 3 al. löng, $1^3/_4$ al. víð og tæplega 2 al. há. En það er líka skán í þeim. Austurhellirinn er rúml. 4 al. á hvern veg, hefir þverbeina veggi og ræfrið hvelft utan með, en miðjan gengur upp í víðan stromp, sem mjókkar upp eftir. Að framan er ekkert berg, en lokað fyrir með þykkri hleðslu, — nema hvað þar kann að hafa verið gluggi. Nú er hleðslan svo niður sigin, að glufa er fyrir ofan, og má smeygja sér þar inn. Enda er það eini inngangurinn, sem hellirinn hefir nú, því dyrahleðslan á vesturhellinum er svo gjörsamlega fallin saman, að þar sjást engin merki mannaverka, nema vel sé að gætt. Því veldur það, að nokkuð er langt síðan hætt var að nota hann fyrir fjárhús og austurhellinn sem heyhlöðu. Svo segja munnmæli, að áður en bær var gjör að Þórunúpi, hafi Sámsstaðamenn átt landið þar, sem hellirinn er, haft þar selför og notað hellinn fyrir sel. Það gæti nú satt verið, þó að hellirinn væri eldri en Íslands bygging En satt að segja mundi þessi hellir eigi hafa vakið þá hugmynd hjá mér, ef hinir hefðu eigi gjört það öllu fremur. En með þeim sýnist mér að hann eigi að fylgja.

4. *Efrahvolshellir* er neðstur af þessum 4 hellum. Þar fyrir innan bæinn gengur klettabrún að læknum, og er hellirinn höggvinn í hana. Bergið er enn móhella, og þó óvenju-hörð, næstum sem þursaberg. Hún er dökk-móleit að lit. Eitlar eru í henni margir og stórir, sumir litlu minni en hleðslusteinar. Þeir eru sumir hornóttir, en sumir meira eða minna sorfnir utan. Þetta berg er því ílt að vinna. Hellirinn er nál. 18 al. langur, 5 al. víður og vel 3 al. hár. Hvelfingarmyndun er á ræfri hans og svo fallega mynduð, sem hinir stóru eitlar framast leyfðu. Eigi hefir hann afhelli. En fáum föðmum neðar er annar, minni hellir. Hann gat eg eigi skoðað, því að hey var í honum. Hinn er hafður fyrir fjárhús. Skamt fyrir neðan hellana hefir lækurinn einhvern tíma á löngu liðnum öldum grafið stóran krók út í vestur-bakka sinn. Þar er nú gróinn grashvarmur. Hann heitir *Irahvammur*. Sú sögn er um hann, að þar hafi verið dysjaðir írskir menn, sem fornmenn hafa drepið. Eigi sjást þess nú nein merki, enda er auðséð, að lækurinn ber aur inn í hvamminn í leysingum. Nokkrum spöl fyrir ofan hellinn, hér um bil í beinni stefnu milli bæjanna Þórunúps og Kotvallar, er móahæð eigi all-lítil. Hún heitir *Iraheiði*. Engin sögn er um tildrög þess örnefnis, en án efa stendur það í sambandi við hitt, þar sem svo er skamt á milli. Frá þessu sagði mér Magnús bóndi Guðmundsson á Kotvelli, hinn merkasti maður. Get eg ekki neitað því, að mér þótti gott að heyra um þessi örnefni þar í nánd við hellinn og silungalækinn, því þau styrkja Papa-hugmynd mína heldur en hitt, þótt þau, auðvitað, sanni hana ekki.

Fróðlegt væri að vita, hvort þeir eru að nokkru mannaverk, hellarnir í suðurdölum Alpafjalla, þar sem Valdensar héldu sig á ofsóknartímunum. Gæti þar ef til vill fengist nokkuð til samanburðar, — þó það sé raunar ekki frá sama tíma.

---

## Forn gerði hjá Þorleifsstöðum.

Í Arbók Fornleifafél. 1900, bls. 2, þar sem skýrt er frá rústum í Ossabæjarvelli, er getið um dálitla girðingu, 10 fðm. langa og 6 fðm. breiða, með smátóft í einu horninu, sem er um 2 fðm. á hvorn veg. Gat ég þá þess til, að þetta hefði verið skjólkví fyrir fénað og skýli fyrir smalann í horninu. Með þessa tilgátu var ég þó aldrei vel ánægður, og nú þykist ég nokkurn veginn viss um, að hún sé ekki rétt. Nú í sumar (1904) sá ég fyrir neðan túnið á Þorleifsstöðum tvær girðingar, sem líta út fyrir að vera sams konar. Þær eru samfastar, aðskildar með garði. Þeim hallar mót suðri og er

einn garður fyrir báðum að neðan, en að ofan tekur eystri girðingin lengra upp eftir. Hún er öll stærri, nál. 10 fðm. upp og ofan, en 12 fðm. frá austri til vesturs. Vestri girðingin er um 8 fðm. á hvorn veg. Smátóftir eru í suðausturhornum beggja. Í vesturgirðingunni er hún 3 fðm. á hvern veg, en í austurgirðingunni er hún vel 3 fðm. vestur með niðurgarðinum, en aðeins 2 fðm. breið, og svo er að sjá, sem hún skiftist í tvo hluti. Auk þess er austan við austurgirðinguna löng og mjó girðing, heldur óglögg: Hún er varla 2 fðm. breið (til austurs frá hinni), en hér um bil 7 fðm. löng (upp og ofan). Hér getur nú ekki verið um skjólkvíar að ræða. Þessi staður er áveðurs fyrir sunnanrigningum, og því síður þurfti hreysi fyrir smalann svona rétt við bæinn. Mér datt því í hug, að þetta væri fornir nátthagar og smátóftirnar í hornunum mjaltakvíatóftir. En svo gætti ég þess, að mjaltakvíar eru vanalega langar og örmjóar, og fornar mjaltakvíatóftir, sem ég hefi séð, eru það líka. Þeim eru þessar tóftir alveg ólíkar. Og svo datt mér í dug að bera þessar girðingar saman við *Línakra* (Árb. 1900, bls. 4—5) og við Munkagerði hjá Vatnsleysu (sjá Árb. þ. á. bls. 48—49). Komst ég að þeirri niðurstöðu, að girðingarnar hefði án efa verið akrar, eða einhvers konar sáðreitir, og smátóftirnar gróðrarstíur, vermireitir eða þess háttar. Og þar eð ég hneigist, enn sem komið er, að þeirri ímyndun, að Þorleifsstaða-hellirinn kunni að vera eftir írska munka, þá þykir mér engin fjarstæða, að eigna þeim einnig þessar girðingar. Og enn skal ég benda á það, að skamt frá Efrahvols-hellinum, austur frá túni á Efrahvoli, eru fyrir víst tvær ferhyrndar girðingar með smátóftum. En á því svæði og þaðan alt upp að Velli er svo mikið af görðum og girðingum, ýmislega óreglulegum, og, að því er sýnist, misfornum, að ég sé mér ekki fært að svo stöddu að draga af því neinar ályktanir. Það eitt er óhætt að fullyrða, að á þessum umræddu stöðum er um fornar jarðræktarmenjar að ræða. — Ég bjó til uppdrátt af Þorleifsstaða-girðingunum.

---

## Forn gerði hjá Rauðnefsstöðum o. fl.

Rauðnefsstaðir standa á bakka Fiskár vestanmegin. En austanmegin árinnar á móts við bæinn er forn girðing, sem sagt er að sé *fjárrétt Þorsteins rauðnefs*. Hún er ferhyrnd og nál. 18 fðm. á hvorn veg. Neðan við hana er snarbratt að ánni, og er auðsèð, að þar hefir áður verið bakki efst, en er nú uppgróinn. Girðingin liggur fast fram á brúnina, og það svo að parturinn að neðanverðu hefir brotnað af. Hann vantar alveg. En meðan girðingin var notuð,

hefir hann víst ekki vantað; án hans var hún ekki held. Hvort sem hún hefir verið fjárrétt Þorsteins eða ekki, þá hefir hún á sinum tíma verið höfð fyrir nátthaga. Í henni er löng og örmjó tóft upp við efri garðinn, og getur hún ekki annað verið en mjaltakvíatóft. Hún er ekki mjög fornleg að sjá, en garðar girðingarinnar eru miklu fornlegri.

Nokkru austar og ofar, — því landinu hallar að ánni, — er önnur girðing, miklu stærri. Hún er nál. 40 fðm. breið og aðalhluti hennar nál. 60 fðm. langur (upp eftir talið), en þar fyrir ofan taka við margar, óreglulegar smágirðingar. Þær auka næstum þriðjungi við girðinguna. Norðurhliðar-garðurinn verður neðan til að grænum bala, sem auðsjáanlega er rústabunga; enda standa ofan á henni margar nýlegar stekkjatóftir og einn stekkur sem enn er notaður. Hygg ég varla, að öll þessi rústabunga sé eftir stekki, heldur sýnist mér líta út fyrir, að hér hafi á sínum tíma staðið bær. Sú ætlan styrkist við það, að neðan við norðvesturhorn girðingarinnar er sérstök tóft forn, sem eigi getur stafað frá stekk, heldur svarar stærð hennar og lögun því, að þar hafi verið hesthús fyrir 1 hest eða 2, og hefði það þá varla tilheyrt bænum fyrir vestan ána. Smágerðin líta út fyrir að vera útgræðslugerði, og bendir það einnig til hins sama.

Rétt fyrir innan bæinn á Rauðnefsstöðum er fossinn, sem fé Þorsteins hrakti í. Hann heitir enn í dag *Leifðafoss*. Það nafn stafar af því, að Þorsteinn lét bera allar matarleifar *(leifðir)* í fossinn. Þannig lagað blót hefir án efa haft þann tilgang, að lokka silung í hylinn undir fossinum. Framanvert við fossinn kemur í ána gil austan úr högum. Tungan, sem þar verður í milli, endar í snarbrattri brekku. Það hvað hafa komið fyrir, að kindur hafi hrakið fram í brekkuna. En þá er hjarn er, getur engin skepna fótað sig í henni, og er þá ekki annar kostur en að hrapa i hylinn undir fossinum.

Bærinn *at Forsi*, þar sem Hrólfur rauðskeggur bjó, mun ekki vera *Foss*, sem enn heitir svo. Hrólfur nam land »milli Fiskár og Rangár«, og þar er án efa átt við Eystri-Rangá, því þaðan út að Ytri-Rangá nam Þorsteinn tjaldstæðingur land og þó fleiri. Bærinn Foss stendur að vísu við Eystri-Rangá, en fyrir vestan hana, og því eigi í landnámi Hrólfs. Bær Hrólfs er því án efa sami bærinu sem Rauðnefsstaðir; hefir í fyrstunni verið kendur við Leifðafoss, sem er hjá bænum, en svo hafa menn, á dögum Þorsteins rauðnefs, farið að kenna bæinn við hann, og hefir það haldist. Frá dögum Þorsteins mun örnefnið Leifðafoss einnig vera, og hefir það haldið uppi frásögninni nm matarleifarnar. *Br. J.*

# Yfirlit

## yfir muni, selda og gefna Forngripasafni Íslands árið 1904.

(Tölurnar fremst sýna tölumerki hvers hlutar í safninu; í svigum standa nöfn þeirra, er gefið hafa safninu gripi).

---

5080—81. Tveir stórir silfurpeningar frá 17. öld.
5082. Eyrnahringar úr gulli.
5083. Matskeið úr silfri frá 1685.
5084. Gamall hornspónn, norðan úr landi.
5085. Sýnishorn af gömlum jarðfundnum lampa.
5086. Skjöldur úr silfri, frá Borgarkirkju.
5087. Tafla, olíumáluð, frá Stórólfshvolskirkju.
5088. Þjónustukaleikur úr tini í skornu tréhylki.
5089. Lítill kútur eða tvíbytna.
5090. Matskeið úr silfri frá 1800.
5091. Rúmfjöl skorin frá 1767.
5092. Lítil skeið úr silfri.
5093. Baukur úr hnottré, úr eign Skúla landfógeta Magnússonar, með fangamarki hans, konu hans og barna.
5094. Skúfhólkur úr silfri.
5095. Skorinn kistill, rauðmálaður.
5096. Hurðarhalda úr kopar, með verki. Frá Stóradalskirkju undir Eyjafjöllum.
5097. Tóbaksponta úr tré, látúnsslegin.
5098. [Sigurður prestur Sívertsen á Hofi í Vopnafirði]: Spjót, fundið í uppblásnum mel í Hofsborgartungu í Vopnafirði.
5099. Silfurdósir síra Benedikts Eiríkssonar í Guttormshaga.
5100. Koffur úr silfri, gylt.
5101—02. Tveir skúfhólkar úr silfri.
5103. Drykkjarkanna, bumbumynduð, frá 1758.

5104. Rjómaskeið úr silfri, úr eign Bjarna amtm. Thorarensen.
5105. Baldéraður skúfhólkur. Norðan úr landi.
5106—09. Nr. 1 af 100, 50, 10 og 5 króna seðlum Íslandsbanka.
5110. Hnappur með kornsettu verki, jarðfundinn í Hreppum í Árnessýslu.
5111. Tóbaksdósir úr silfri, er átt hefir Sveinbj. rektor Egilsson.
5112. [Jón skólapiltur Sigurðsson frá Kaldaðarnesi]: Snúður úr fitusteini, fundinn í gömlum rústum.
5113. [Magnús prestur Helgason frá Torfastöðum]: Jarðfundin hringja úr kopar, fundin í gömlum bæjarrústum nálægt Gullfossi.
5114. [Sami]: Stórt ístað úr járni, fnndið á sama stað.
5115. [Sami]: Leifar af mellulás, fundnar á sama stað.
5116. [Hr. Eggert Sölvason frá Gilhaga í Vatnsdal]: Ljár forn og jarðfundinn.
5117. Teskeið úr silfri, með verki.
5118. Skúfhólkur úr silfri.
5119. Átta brot úr Alabasttöflu, jarðfundin á Hvanneyri í Borgarfirði.
5120. Tvær gamlar ljósapípur. Frá Skeggjastaðakirkju í Norðurmúlasýslu.
5121. Tvær ljósaplötur gamlar. Frá Hólakirkju í Hjaltadal.
5122. [Brynjólfur fornfræðingur Jónsson]: Gömul skeifa.
5123. Lítill kistill, skorinn. Austan úr Holtum í Rangárv.sýslu.
5124—25. [Amtmaður J. Havsteen í Rvík]: Tveir lögregluskildir.
5126—27. [Sami]: Tveir stimplar (stiftsyfirvalda og amtsins).
5128—38. [Sami]: Ellefu signet (amta og stiftsyfirvalda).
5139. Kistill, skorinn, úr eign Bjarna amtmanns Thorarensen.
5140. [Hr. Arni Björnsson, Smiðjuhúsi í Reykjavík]: Gamalt innsigli, jarðfundið.
5141. [Páll amtmaður Briem]: Skjöldur úr tini með grafletri yfir Cancelliráð Þórð sýslumann Björnsson.
5142. [Erlendur gullsmiður Magnússon í Reykjavík]: Stólkambar.
5143—51. Níu frímerki (þar af 2 skildingafrímerki).
5152. Gömul skrá.
5153. Hálsfesti úr eign amtsmannsfrúar Þórunnar Thorsteinsson.
5154. Hurðarhringur úr kopar.
5155. Skápshurð skorin.
5156. Eldstó með vatnshylki, úr eir.
5157—74. Átján yfirstimpluð frímerki.

# Skýrsla.

## I. Aðalfundur félagsins 1905.

Aðalfundur félagsins var haldinn þriðjudaginn 21. nóv. Eftir að formaður hafði minst 3 látinna félagsmanna: síra Arnljóts Ólafssonar, Helga bankaassistents Jónssonar og Páls amtmanns Briem, lagði hann fram endurskoðaðan ársreikning félagsins, sem engar athugasemdir höfðu verið gerðar við. Því næst skýrði hann frá rannsóknarferðum Brynjúlfs Jónssonar um Þingeyjarsýslu og víðar í Norðurlandi næstliðið sumar. Enn fremur gat hann þess, að verið væri að prenta árbókina fyrir 1905 og skýrði frá því, að Brynjúlfur Jónsson væri búinn að ljúka við registur við árbækurnar fyrstu 25 árin, sem félagið hefur staðið, 1880—1904. Útgáfa registursins mundi næsta ár hafa mikinn kostnað í för með sér. Fyrir því hefði eigi annað þótt fært en að takmarka kostnað við útgáfu árbókarinnar í þetta sinn og láta henni ekki fylgja aðrar myndir en uppdrætti þá, sem nauðsynlegir væru til skýringar.

## II. Stjórn fèlagsins.

Formaður: Eiríkur Briem, prestaskólakennari.
Varaformaður: B. M. Ólsen, dr., prófessor.

Fulltrúar: B. M. Ólsen, dr. prófessor.
Hannes Þorsteinsson, ritstjóri.
Jón Þorkelsson, dr., landsskjalavörður.
Pálmi Pálsson, kennari.
Stgr. Thorsteinsson, rektor.
Þórh. Bjarnarson, lektor.

Skrifari: Pálmi Pálsson, kennari.
Varaskrifari: Hallgrímur Melsteð, bókavörður.

Féhirðir: Þórh. Bjarnarson, lektor.
Varaféhirðir: Sigurður Kristjánsson, bóksali.
Endurskoðunarmenn: Jón Jensson, yfirdómari.
Jón Jakobsson, forngripavörður.

## III. Reikningur hins íslenzka Fornleifafélags 1904.

Tekjur:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Í sjóði frá fyrra ári . . . . . . . . . . . | | | kr. | 844 78 |
| 2. | Tillög félagsmanna og seldar Árbækur (fskj. 1) . . | | | — | 100 26 |
| 3. | Styrkur frá Forngr.safninu til að spyrja upp forngripi | | | — | 100 00 |
| 4. | Styrkur úr landssjóði . . . . . . . . . . . | | | — | 400 00 |
| 5. | Vextir á árinu: | | | | |
| | a. af bankavaxtabréfi . . . . . . | kr. | 22 50 | | |
| | b. í sparisjóði . . . . . . . . . . | — | 1 08 | — | 23 58 |
| | Samtals: | | | kr. | 1468 62 |

Gjöld:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Kostnaður við Árbókina 1904 (fskj. 2—4) . . . . | | | kr. | 234 01 |
| 2. | Greitt Br. Jónssyni fyrir fornleifarannsóknir (fskj. 5) | | | — | 140 00 |
| 3. | Ýmisleg útgjöld (fskj. 6—8) . . . . . . . . . . | | | — | 23 16 |
| 4. | Í sjóði við árslok 1904: | | | | |
| | a. bankavaxtabréf . . . . . . . . . | kr. | 500 00 | | |
| | b. í sparisjóði Landsbankans . . . . . | — | 31 52 | | |
| | c. hjá féhirði . . . . . . . . . . | — | 539 93 | — | 1071 45 |
| | Samtals: | | | kr. | 1468 62 |

Reykjavík, 18. nóvember 1905.
*Þórh. Bjarnarson.*

## IV. Fèlagar.

### A. Æfilangt.

Ásgeir Blöndal, læknir, Eyrarbakka.
Anderson, R. B., prófessor, Ameríku.
Andrés Féldsted, bóndi á Trönum.
Ari Jónsson, bóndi á Þverá í Eyjaf.
* *Árni B. Thorsteinsson*,[1]) komm. dbr. f. landfógeti, Reykjavík.
Bjarni Jensson, læknir í Síðuhéraði.
Björn Guðmundsson, kaupm. Rvk.
Björn M. Olsen, dr., r., prófessor, Rvk.
Bogi Melsteð, cand. mag., Khöfn.
* *Bruun, Daniel*, kapteinn í hernum, Khöfn.

1) Stjarnan (*) merkir heiðursfélaga.

Carpenter, W. H., próf., Columbiaháskóla, Ameríku.
Collingwood, W. G., málari, Coniston, Lancashire, England.
Dahlerup, Verner, cand. mag., bókav. Khöfn.
Eggert Laxdal, verzlunarstj. Akureyri.
Eiríkur Magnússon, M. A., r., bókav. Cambridge.
* *Elmer Reynolds*, dr., Washington.
Feddersen, A. Stampe, frú, Rindumgaard pr. Ringköbing.
Friðbjörn Steinsson, bóksali, Akureyri.
Gebhardt, August, dr. fil., Nürnberg.
Goudie, Gilbert, F. S. A. Scot, Edinb.
Hjörleifur Einarsson, r., próf., Undirf.
Horsford, Cornelia, miss, Cambridge, Massachusetts, U. S. A.
Indriði Einarsson, revisor, Rvk.
Jóhannes Böðvarsson, trésm., Akranesi.
Jón Gunnarsson, verzl.stjóri, Hafnarfirði.
Jón Jónsson, prófastur, Stafafelli, Lóni.
Jón Vídalín, kaupmaður, r., Khöfn.
Jónas Jónasson, prófastur, Hrafnagili.
Kjartan Einarsson, prófastur, Holti.
Kristján Zimsen, kaupmaður, Rvk.
Lárus Benediktsson, f. prestur, Rvk.
Löve, F. A., kaupmaður, Khöfn.
Lehmann-Filhés, M., fraülein, Berlin.
Magnús Andrésson, próf., r., Gilsbakka.
Magnús Stephensen, stkr. af dbr. og dbm., f. landshöfðingi, Rvk.
Matthías Jochumsson, r., f. prestur, Akureyri.
Müller, Sophus, dr., museumsdirektör, Khöfn.
* *Nicolaisen, N.*, antikvar., Kria.
Ólafur Johnsen, f. yfirk., r., Óðinsey.
Peacok, Bligh, Esq., Sunderland.
Phené, dr., Lundúnum.
Schjödtz, cand. pharm., Óðinsey.
Sighvatur Árnason, dbrm., Rvk.
Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur.
Stefán Guðmundsson, verzlunarfulltrúi, Khöfn.
* *Storch, A.*, laboratoriums-forstjóri, Khöfn.
Styffe, B. G., (r.-n.) dr. fil., Stokkhólmi.
Sæmundur Jónss., b., Minni-Vatnsleysu.
Torfhildur Þ. Hólm, frú, Rvk.
Torfi Bjarnason, skólastj., r., Ólafsdal.
Vilhj. Stefánsson, Peabody Museum, Harward University, Cambr. Mass., U. S. A.
Wendel, F. R., verzl.stjóri, Þingeyri.
Wimmer, L. F. A., dr. fil., próf., komm. af dbr. og dbrm., Khöfn.
Þorgrímur Johnsen, f. héraðslæknir, Rvk.
Þorsteinn Erlingsson, ritstjóri, Rvk.
Þorvaldur Jakobsson, prestur í Sauðlauksdal.
Þorvaldur Jónsson, f. héraðsl., r., Ísafirði.
Þorvaldur Jónsson, r., prófastur, Ísafirði.
Þorvaldur Thoroddsen, dr., r., prófessor, Khöfn.

## B. Með árstillagi.

Árni Jónsson, prófastur Skútustöðum, 1904.[1])
Amira, Karl v., próf., München 04.
Arpi Rolf, dr. fil., Uppsölum, 97.
B. B. Postur, Victoria, Br. C. Canada, 08.
Björn Jónsson, ritstj., r., Rvk, 04.
Brynjólfur Jónsson, fræðimaður, Minnanúpi, 03.
David Scheving Thorsteinsson, héraðslæknir, Ísafirði 80.

1) Ártalið merkir, að félagsmaðurinn hefir borgað tillag sitt til félagsins fyrir það ár og öll undanfarin ár, síðan hann gekk í félagið.

Eiríkur Briem, prestaskólakennari, r., Rvk, 04.
Finnur Jónsson, dr., prófessor, Khöfn, 05.
Forngripasafnið í Rvk, 04.
Geir Zoëga kaupm., dbrm., r., Rvk, 04.
Gering, Hugo, prófessor, dr., Kiel, 00.
Gräfe, Lukas, bóksali, Hamborg, 00.
Greipur Sigurðsson, b., Haukadal, 96.
Guðmundur Hannesson, Galtarnesi, Víðidal, 98.
Guðm. Helgason, próf., Reykholti, 05.
Guðni Guðmundsson, læknir, Borgundarhólmi, 85.
Gustafson, G. A., filos, licentiat, konservator, Bergen, 93.
Halldór Briem, kennari, Möðruv., 00.
Halldór Daníelsson, bæjarfóg., r., Rvk, 04.
Hallgrímur Melsteð, bókav., Rvk, 04.
Hallgrímur Sveinsson, komm. dbr., biskup, Rvk, 04.
Hannes Þorsteinsson, cand. theol., ritstjóri, Rvk, 04.
Harrassowits, Otto, bóksali, Leipzig, 95.
Hauberg P., r., Museumsinspektör, Khöfn, 01.
Heydenreich W. dr. Günzburg, 04.
Hinrik K. Hugason Bürgel, Leipzig 02.
Jóhannes Sigfússon, kennari, Rvk. 87.
Johnston. A. W., hon. treasurer, Viking Club, Lundúnum, 04.
Jón Borgfirðingur, fræðim., Rvk, 01.
Jón Jakobsson, alþingism., Rvk, 04.
Jón Jensson, yfirdómari, Rvk, 04.
Jón Jónsson, læknir, Vopnafirði, 99.
Jón Jónsson, sagnfræðingur, Rvk, 04.
Jón Þorkelsson, dr., landsskjalavörður, Rvk, 04.
Jósafat Jónasson, Winnipeg, 00.
Kaalund, Kr., dr. phil., Khöfn, 04.
Kristján Jónsson, yfirdómari, Rvk, 04.
Lestrarfélag Fljótshlíðar 05.
Lestrarfélag Austurlandeyinga 96.
Magnús Helgason, prestur, kennari í Hafnarfirði, 04.
Matthías Þórðars., stud. mag., Khöfn, 04.
Meissner, R., dr., próf., Göttingen, 04.
Mollerup, V., dr. phil., r., Museumsdirektör, Khöfn.
Mogk, E., dr., prófessor, Leipzig, 03.
Montelius, O., dr. phil., Ám., Stokkhólmi, 01.
Ólafur Guðmundsson, f. héraðslæknir, Stórólfshvoli, 81.
Ólafur Ólafsson, prestur, Rvk, 81.
Páll E. Ólason, stúdent, Rvk.
Pálmi Pálsson, kennari, Rvk, 04:
Pétur Jónsson, blikkari, 04.
P. J. Thorsteinsson, kaupm., Khöfn, 00.
Sigfús H. Bjarnarson, konsúll, Ísaf., 94.
Sigurður Gunnarsson, próf., Stykkishólmi, 81.
Sigurður Kristjánsson, bóksali, Rvk, 04.
Sigurður Ólafsson, sýslumaður, Kaldaðarnesi, 05.
Sigurður Þórðarson, sýslumaður, Arnarholti, 03.
Staatsbibliothek í München, 00.
Stefán Egilsson, múrari, Rvk, 84.
Steingrímur Thorsteinsson, rektor, r., Rvk, 04.
Steinordt, J. H. V., theol. & phil., dr. (r. n.), Linköbing, 93.
Tamm, F. A., dr., docent, Uppsölum, 03.
Tryggvi Gunnarsson, bankast., komm., dbrm., Rvk, 04.
Valdimar Briem, r., próf., Stóranúpi, 01.
Valtýr Guðmundsson, dr. phil., docent, r., Khöfn, 97.
Þóra Jónsdóttir, frú, Rvk, 04.
Þórður J. Thorodds., bankagj.k., Rvk, 80.
Þórhallur Bjarnarson, lektor, r., Rvk, 04.
Þorleifur J. Bjarnason, kennari, Rvk, 04.
Þorleifur Jónss., prestur, Skinnastað, 06.
Þorsteinn Benediktss., pr., Bjarnanesi, 98.
Þorsteinn Jónsson, héraðslæknir, r., Vestmanneyjum, 05.

# Efnisyfirlit.


Afstöðu-uppdráttur landnáma í Árnessþingi austan Hvítár.
Brú
Drumboddstaðir
Tungufljót
Bræðratunga
Brúará
Miklaholt
Skálholt
Mosfell
Svínavatn
Kaldárholt
Grjótá
Heyvík
Hestlækur
Hestvatn
Hestfjall
Höskuldslækur
Kiðjaberg
Öndverðanes
Álftavatn
Sogið
Ingólfsfjall
Kálfholt
Gjótnes
Sandhólaferja
Háfur
Arnarbæli
Þorlákshöfn
Táknanir:
Stöðuvatn.
Á, stór eða smá.
Flóðkill, dælar.
Nýr eða breikkaður farvegur.
landbrotsfjara.
foksandur.
fjöll og hólar.
bæir.
rústir, eyðibæir.
áætluð landamerki landnáma.

Garðabrekka.




Girðingar hjá Þorleifsstöðum.



Myndarramminn í Þorleifsstaðahelli.



Alviðra í Gnúpverjahreppi



Í Holtum.




a. fjóstóft og hlöðu.
b. hús í túni.
c. girðing.
d. fjárhús nú.
e. rústir frá ýmsum tímum.
ff. túngarður.

Rúst við Hrafnabjörg.




a. bæjarrústin.
b. heimahof (?).
c. Vatnsbólið.

Grímastaða rústin.




a. bæjarrústin.
b. rof með steinaröð
c. smátóft.